# Frakka minni

í samsæti Islendínga

i Kaupmannahöfn.

---

Þann 16. Januarí 1839.

Þrykkt í Berlínga prentverki.

"Vernda árásum okkur frá
óðra víkínga norðurlanda!"
Svo gjörðu fyrri öldum á
yðvarrir klerkar bænir vanda;
Þá vorir áar víkíng í
vitjuðu ykkar fjár að leita
frægð þótti' í einu falin því
:|: fjárins að afla' og vopnum beita :|:

"Sækið sem optast okkur heim
allra fúsastir gott að vinna!"
Sú hljómar ósk um allan geym
Íslands, svo fjöllin bergmál inna;
Nú er von eingi vígum á,
vísindi' og mentir aldir boða,
og Frakkar einkum útífrá
:|: eflíngu þeirra með oss stoða :|:

Að kveða' um ykkar afreksverk
og hreystibrögð og mentastörfin,
sem bæði eru mörg og merk,
þess metum ei að gjörist þörfin;
því Saga vængjum sínum á
svo er lof ykkar vön að bera
að verða mundi' í geði grá
:|: ef gæfist ei einni' um það að vera :|:

Þid unnið frelsi' og allri ment
sem áar vorir fyrrum gjörðu;
því má enn hrósa' að þetta tvennt
þróist á vorri fósturjörðu;
frændsemi með oss finnst oss því —
þótt fjarlægð skilji — vera' í anda;
þess óskum vèr að æ og sí
:|: órofin hún að megi standa! :|:

Heill sè þèr jafnan horska þjóð!
heil sit með frægstum gylfa þínum;
Guð þína sigri girði slóð,
gæðum þèr öllum býti sínum!
athöfnum þínum öllum hann
til allra heilla virðist snúa,
á hafi' og láði hamingjan
:|: háleit æ styðji Frakklandsbúa! :|:

***Magnús Hákonarson.***